# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, MAÍ 1901. Nr. 3.

## Símon Pétr opinberlega afleystr og að nýju settr inn í postula-embættið.

*Þýðing þess fyrir oss og kristna kirkju á öllum tímum.*

PRÉDIKAN,
flutt af ritst. „Sam." í Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg
síðastl. 2 sd. eftir páska.

Texti: Jóh. 21, 15—22.

Guðspjallskafli þessi er áframhald sögunnar um opinberan Jesú fyrir lærisveinunum á strönd Genesaretvatns í Galíleu. Og sést hér, að þegar hann í það skifti opinberaðist þeim—í þriðja sinn eftir upprisuna fyrir heilum hópi þeirra—, þá var það ekki að eins í þeim tilgangi, að brýna fyrir þeim öllum skyldu postula-embættisins, þá miklu, helgu skyldu, að veiða menn úr djúpi dauðans inn í guðs ríki, heldr líka í öðrum tilgangi, sem aðallega snerti einn einasta þeirra, Símon Pétr. —„Farið og segið lærisveinum hans og Pétri, að hann fari á undan yðr til Galíleu. Þar munuð þér sjá hann, eins og hann sagði yðr." Þannig talaði engillinn í grafarþrónni, þar sem líkami Jesú hafði legið, við konurnar á páskadagsmorguninn. Með þessi skilaboð áttu þær tafarlaust að fara til lærisveinanna. Festum huga vorn allra snöggvast við þessi orð: „Segið lærisveinum hans *og Pétri.*" Það er eins og þar sé út frá því gengið, að Pétr sé ekki þá einn af lærisveinunum, að hann heyri ekki lengr til þeim hópi.

Enda mátti svo virðast, að með hinni grátlegu afneitunarsynd, sem sá maðr lenti í á skírdagskvöld í öndverðri píslarsögu Jesú, hefði hann hrapað út úr tign postula-embættisins. Og hvernig sem aðrir kynni að líta á það hrösunar-slys, þá er víst enginn vafi á því, að Pétri sjálfum með sársauka iðrunarinnar í hjartanu hefir fundizt, að hann með öllu væri búinn að fyrirgjöra rétti sínum til þeirrar há-virðulegu stöðu. Til þessa tekr hin guðlega nærgætni tillit í boðskap engilsins til kvennanna. Þær eiga að láta lærisveinana, líka Pétr, og hann um fram allt, vita um fagnaðaratburðinn, sem orðinn var, upprisu meistarans, og þar af leiðandi væntanlega samfundi hans og þeirra. Og svo er þá Jesús nú, þegar hann birtist lærisveinunum við strönd Genesaretvatns í Galíleu, með fram, og jafnvel um fram allt, þangað kominn Pétrs vegna. Hann er við þessa samfundi að hugsa um lærisveinahópinn sem heild og Pétr sérstaklega. Svo þýðingarmikið sem efnið í fyrra hluta sögunnar um þessa opinberan frelsarans er út af fyrir sig, hinn yfirnáttúrlegi fiskidráttr og máltíðin á ströndinni, þá er það þó í rauninni að eins undirbúningr undir þann atburð, sem kemr fram í síðara hluta sögunnar, þeim hluta hennar, sem nú er texti vor. Það sést hér, að aðal-tilgangr þessarar opinberunar Jesú hefir verið sá, að setja Pétr aftr opinberlega inn í postula-embættið. Bæði fiskidráttar-undrið og máltíðar-veitingin var lærdómsríkt og dýrmætt líkingarmál, sem hlaut að hafa stór-mikla þýðing fyrir lærisveinana alla í trúarlegu tilliti. Allir sameiginlega eru þeir með því hvorutveggja hátíðlega, mildilega, átakanlega minntir á hina almennu kristilegu lærisveinsskyldu og hina sérstöku postulaskyldu, þá skyldu, að bjarga öðrum mönnum úr andlegum voða, þá skyldu, að hjálpa syndmœddum sálum til lífsins í guði, og síðan að nœra hið nýja líf þeirra sömu manna með hinni alsönnu andlegu fœðu frá frelsaranum, svo þeir gæti tekið eðlilegum og guði velþóknanlegum trúarþroska æ meir og meir eftir því, sem tímar liði fram. Og jafnframt eru þeir með hvorutveggja þessu teikni, fiskidrættinum og máltíðinni, á það minntir, að þrátt fyrir það þótt hér sé um afar víðtœkt og ervitt skyldustarf að rœða, og þrátt fyrir það þótt þeir viti af

ákaflega miklum veikleik hjá sjálfum sér, þá þurfi þeir þó engu að kvíða, vegna þess að í raun og veru sé það ekki þeir, lærisveinarnir, postularnir, sem vinni þetta verk. Hann meistarinn þeirra, Jesús upprisinn frá dauðum, hinn guðlegi mannkynsfrelsari Kristr, standi á bak við þá; hann sé það, sem sendi þá út, stýri verki þeirra, hjálpi þeim í því verki til sigrs. Í rauninni hafi þeir ekkert annað að gjöra en að treysta honum og hlýða rödd hans samvizkusamlega. Þá muni allt vel fara. Þá sé þeim sigrinn vís. Upp á eigin býti höfðu þeir setið heila nótt úti á hinu fiskauðga vatni og ekkert veitt. En óðar en hann kom til sögunnar og þeir köstuðu út neti sínu eftir hans orði á þeim bletti, sem hann benti þeim á, hœgra megin við skipið, þá inniluktu þeir í neti sínu stór-mikla fiskimergð. Og áðr en þeir höfðu neitt hið minnsta matarkyns var þeim af hans völdum búin máltíð þar uppi á ströndinni. Var ekki með þessu hvorutveggja ómótmælanlega sýnt, að óhætt væri fyrir þá alla að treysta honum, trúa Jesú fyrir persónulegum lífsþörfum sínum á ókominni tíð? og þá eigi síðr trúa honum fyrir lífi sínu, þegar þeir framvegis væri að vinna að því í hans nafni að veiða menn inn í guðs ríki og nœra og styrkja trúarlíf þeirra eftir að búið væri að bjarga þeim þangað á land upp úr dauðadjúpinu? Þessa lexíu var þeim öllum lífsnauðsynlegt að fá á þessu skeiði æfi þeirra. Og þó engum eins nauðsynlegt og Pétri. Því sökum hinnar stórfelldu, hryggilegu hrösunar, sem hann hafði hent, fann hann vissulega enn meir og sárar en þeir allir hinir til óverðugleika síns til þess að vera postuli Jesú. Og þótt allir víst treysti sjálfum sér lítið, þá treysti hann sér þó eflaust af sömu orsök minnst allra Hann þurfti öllum fremr á þeirri hughreysting og hjartastyrking að halda, sem lá í fiskidráttar-kraftaverkinu og máltíðarveitingunni. Hans vegna um fram allt lét þá Jesús líka hvorttveggja það verklega líkingarmál fram koma til undirbúnings samtali því, er hann á við hann í áframhaldi sögunnar í núveranda texta vorum.

Víst er nú Jesús áðr en en hér er komið í sögunni búinn að taka þennan syndfallna lærisvein sinn til náðar. Þegar þeir tveir lærisveinar, sem Jesús opinberaðist á Emmaus-

göngunni, komu aftr á páskadagskvöld inn til Jerúsalem, fagnandi út af því, sem fyrir þá hafði komið, þá er af félögum þeirra samansöfnuðum heilsað upp á þá með þessum orðum: „Drottinn er sannarlega upprisinn og hefir birzt Símoni." Og þó að ekkert sé frekar um þá opinberan getið í guðspjallasögunni, þá staðfestir þó Páll postuli það mál í 1. Kor. 15, 5, er hann tekr það fram, að Kristr hafi séðr verið af Kefasi, sem er hebreska nafnið á Pétri postula, og þar eftir af postulunum öllum. Símoni Pétri hlotnast sú miskunn og sá heiðr, að fá að sjá Jesúm eftir upprisuna fyrstr allra lærisveinanna. Öllum skilst, hvernig stóð á þeirri sérstöku náðarveiting honum til handa. Hann þurfti svo óendanlega mikið á frelsaranum að halda persónulega til sín. Það átti enginn eins bágt og hann, því það hafði enginn syndgað eins og hann. Auðvitað hefir sú opinberan þá þýtt það, að Jesús hefir veitt lærisveini þessum uppreisn, fyrirgefið honum syndafall hans, fullkomlega tekið hann í sátt við sig. Eða öllu heldr látið hann einslega með blíðum kærleiksatlotum vita um það, að hann þegar áðr væri tekinn til náðar. Því á því er enginn vafi, að jafnvel áðr en Jesús dó, jafnvel undir eins og hann leit til Pétrs í hallargarði œðsta prestsins með því angrblíða augnaráði, sem leiddi til hinnar sáru og hjartanlegu iðrunar, hefir hann verið búinn að veita honum fullkomna fyrirgefning. En þó að Pétr þannig áðr væri að fullu og öllu tekinn til náðar af Jesú einslega, þá var þó nauðsynlegt Pétrs vegna og lærisveinanna hinna vegna, að fram kœmi opinber og hátíðleg yfirlýsing því viðvíkjandi frá frelsaranum. Og þá yfirlýsing fær hann og þeir og allr heimrinn með því, er gjörist í söguþætti texta vors. Hefði slík opinber yfirlýsing ekki fengizt, þá má telja alveg víst, að Pétr, þótt hann vissi vel af því, að Jesús var búinn að fyrirgefa honum synd hans, hefði aldrei árætt að ganga að hinu fyrirsetta postulastarfi sínu, og í annan stað það, að félagsbrœðr hans, lærisveinarnir hinir, hefði ekki heldr þorað að trúa honum fyrir því starfi með sér í framtíðinni, að eg nú ekki nefni það að vera höfuðmaðrinn í þeirri starfsemi, hinn fremsti á meðal postulanna, eins og hin upphaflega köllun Jesú til hans virtist benda til að hann ætti að verða og eins

og postulasagan sýndi að hann varð í reyndinni. Hér var maðr, sem á sínum tíma hafði tekið við ábyrgðarmiklu opinberu embætti í kristinni kirkju. Hann hafði með afneitan sinni hvað eftir annað endrtekinni drýgt hræðilega synd. Sú synd var lærisveinunum hinum öllum kunn. Og með henni var ekki að eins svartr blettr kominn á hann, heldr líka um leið skugga varpað yfir trúarmál kristindómsins yfir höfuð. Synd hans hefði um allan heimsins aldr verið opinbert hneyksli, af því að hann var í þeirri háu stöðu, sem hann var, hefði Jesús látið sér nœgja þá fyrirgefning, sem hann var búinn að veita honum einslega áðr. Pétr þurfti líka opinberlega að koma fram sem iðrandi maðr og opinberlega að vera tekinn til náðar og opinberlega að nýju að vera settr inn í postula-embættið. Með því einu móti varð hjá því komizt, að hið opinbera syndafall Pétrs yrði framvegis að hneyksli í augum trúaðra og vantrúaðra manna.

Og svo vildi þá drottinn vor Jesús Kristr auðvitað, að framkoma hans við þetta tœkifœri skyldi verða safnaðarlýðnum hans á öllum tímum og öllum stöðum ógleymanleg lexía til lærdóms að því er það snertir, hve varlega og samvizkusamlega yrði að fara með kennimanns-embættið í kirkjunni. Það sést hér skýrt, að þegar einhver kirkjulegr embættismaðr, prestr eða einhver annar opinber kennari eða starfsmaðr í kirkjunni, hefir drýgt einhverja þá synd, sem réttilega er talin hneyksli, þá—svo framarlega sem hann vill vera og á að geta verið í þeirri virðingarstöðu framvegis—lætr drottinn sér ekki nœgja, að hann einslega með sjálfum sé iðrist þeirrar syndar og leiti einslega fyrirgefningar á henni. Drottinn heimtar þar enn meira, heimtar það, að maðrinn játi synd sína opinberlega frammi fyrir söfnuðinum. Og ef sú játning ber vott um sanniðranda, syndhatanda, guðelskanda hugarfar, þá er það heilög skylda safnaðarins að veita hinum syndfallna embættismanni í drottins nafni fullkomna fyrirgefning á hneykslan þeirri, er hann hefir gjört sig sekan í. Því guð fyrirgefr áreiðanlega öllum sanniðrandi mönnum sérhvað eina, sem þeir hafa misbrotið. Og sú fyrirgefning verðr þá líka að veitast opinberlega. En þó að slík fyrirgefning sé opinber-

lega veitt, þá leiðir þó engan veginn endilega af því, að sá hinn sami maðr sé aftr hiklaust settr að nýju inn í kirkjulegt embætti, gamla embættið sitt eða eitthvert annað nýtt. Syndin, sem drýgð hefir verið, getr verið þess eðlis, að enda þótt á henni sé fengin fullkomin fyrirgefning, þá getr þó maðrinn ekki hennar vegna að ósekju fyrir málefni drottins verið í þeirri stöðu, að minnsta kosti ekki í bráð, og ef til vill aldrei framar á æfi sinni. Og sé maðrinn í raun og veru sanniðrandi, þá lætr hann sér ekki detta í hug að vera í þeirri stöðu, lengi vel, ef til vill aldrei, þó að fólk kirkjunnar almennt ekki kynni að hafa neitt á móti því.

Það kemr hér til greina eitt allsherjar lögmál, sem guð sjálfr hefir sett viðvíkjanda syndinni og syndafyrirgefningunni. Mörg synd er þess eðlis, að menn verða nauðugir viljugir að bera þung gjöld hennar, marg-oft æfilangt, líka eftir að þeir út af henni hafa með iðranda hjarta snúið sér til drottins, beðið fyrirgefningar á henni og fengið hana fullkomna. Hinn iðrandi ræningi á krossinum er óðar tekinn til náðar af frelsaranum, þegar hann snýr sér biðjandi til hans. Á sama augnabliki er syndin hans algjörlega afmáð. En syndagjöldin hérna megin halda áfram eins fyrir því, eða stór-mikill hluti þeirra: krossfestingar-kvölin hans líkamlega og svívirðingin í manna augum, sem þar með fylgdi. Hann er ekki frelsaðr af Jesú frá krossinum. Hann líðr og deyr á krossinum með fyrirgefnum syndum. Margir eru þeir, grátlega margir, sem brjóta niðr líkamsheilsu sína með syndalífi sínu. Drottinn fyrirgefr þeim, ef þeir í hjartans alvöru leita hjá honum fyrirgefningar. En þó að þeir hætti að lifa í sinni gömlu synd, sem þeir að sjálfsögðu gjöra, ef fyrirgefningarbeiðnin hefir verið í fullri alvöru, þá er þó engan veginn sagt, að þeir fái aftr heilsuna, oft hér um bil víst, að hún fæst aldrei framar. Þetta atriði syndagjaldanna heldr áfram út í dauðann. Guð gjörir þar ekkert kraftaverk. Þetta almenna lífslögmál syndinni og syndafyrirgefningunni viðvíkjanda gjörir það í alla staði skiljanlegt, að maðr í opinberri stöðu í kristinni kirkju, sem drýgt hefir einhverja hneykslanlega synd, geti marg-oft ekki, þótt hann iðrist af öllu hjarta og fái fyrir-

gefning af öllu hjarta opinberlega bæði frá guði og mönnum, hneykslislaust og að vilja drottins haldið sínu kirkjulega embætti sínu eftir það. Skiljanlega er það býsna sár syndahegning, að vera á þennan hátt leystr frá virðulegu embætti í kirkjunni; en sá, sem fyrir því verðr, tekr því með auðmýkt, leggr sig undir það fúslega eins og hvern annan drottinlegan kross, svo framarlega sem hann í sannleika er iðrandi maðr og leitar fyrst af öllu guðs ríkis, hans réttlætis og hans dýrðar. — Synd sú, sem Pétr hafði drýgt, var nú ekki þess eðlis, þótt hún væri mikil og grátleg, að hennar vegna þyrfti hann endilega að missa hið kirkjulega embætti sitt fyrir fullt og allt. En hún var svo mikil, að til þess að geta haldið því embætti eftir sem áðr þurfti hann opinberlega að vera af drottni tekinn til náðar. Þar nœgði ekki einsleg fyrirgefning. Hann sjálfr þurfti meira. Hið drottinlega málefni, hið kirkjulega embætti, krafðist meira. Það þurfti að veita honum opinbera aflausn. Og það einmitt er það, sem Jesús veitir honum, þegar saga texta vors gjörist. Og samfara þeirri aflausn er hann af Jesú opinberlega settr inn í postula-embættið með öllum þeim skyldum og réttindum, sem því háa kirkjulega embætti tilheyrðu.

En veiti nú allir því vandlega eftirtekt, hvernig að einu leyti Jesús og að öðru leyti Pétr — hinn syndfallni, iðrandi lærisveinn — kemr fram við þessa hátíðlegu opinberu aflausn. Í 10. kap. Jóhannesar guðspjalls standa þessi orð Jesú tvítekin: „Eg em góði hirðirinn.“ Og þar fœrir hann líka með orðum sönnur á það mál, að hann sé góði hirðirinn, hinn alfullkomni, guðlegi sálnahirðir. Hann flutti lærisveinum sínum þann boðskap nokkru áðr en hann gekk út í píslardauðann. En hér fœrir hann *verklega* sönnur á það mál með því, hvernig hann kemr fram andspænis Pétri, þegar hann nokkru eftir upprisu sína frá dauðum er að veita honum opinbera aflausn. Margir hefði búizt við því, að Jesús við það tœkifœri kallaði Pétr fram og spyrði hann í heyranda hljóði, hvort hann kannaðist við afneitunarsyndina hryggilegu, sem hann hafði gjört sig sekan í. En hann gjörir það ekki, — þ. e. að segja: ekki beinlínis. Hann gjörir það óbeinlínis með

því hvað eftir annað að spyrja hann um það, sem hann spurði hann, hvort hann elskaði sig. Í þeim spurningum opinberast speki og kærleiksnærgætni hins góða sálnahirðis. Hann fór svo vægilega með hið særða lærisveinshjarta sem mest getr hugsazt, án þess þó neitt hið minnsta að draga úr sektarþunga hinnar drýgðu syndar. Synd Pétrs minnkar ekki í augum hans — lærisveinsins — við það, að frelsarinn fer svo mildum höndum um hann á hinum sára bletti. Hún vex þvert á móti í huga hans út af því að svo mildilega var á henni tekið af meistara hans. Hann hafði víst aldrei sárar fundið til út af syndaeymd sinni en nú, er hann var að svara spurningum Jesú um það, hvort hann elskaði hann, jafnvel ekki á skírdagskvöld, þegar hann eftir afneitanina þreföldu nýafgengna og eftir að Jesús hafði til hans litið gekk grátandi út úr hallargarðinum í Jerúsalem. Á yfirborði sögunnar ber ekkert á því, að þar sé um neina synd eða syndajátning að rœða. En við hvert orð, sem frelsarinn segir, titrar sál lærisveinsins af sársauka syndameðvitundarinnar, iðrunarinnar og heilagrar löngunar eftir því að geta nú framvegis reynzt drottni sínum og sjálfum sér trúr til enda. ,,Símon Jónasson!" þannig ávarpaði Jesús hann í því hann hóf samtal sitt við hann í þetta sinn. Þetta var gamla nafnið hans, sem hann bar áðr en Jesús kvaddi hann sér til fylgdar forðum. Hann nefnir hann ekki með postulanafninu Kefas, Pétr, hellubjargið. Hann hafði fyrirgjört þeim heiðrstitli með því að falla frá á freistingartímanum. Út af hinni skýru og alsönnu trúarjátning þessa lærisveins hafði Jesús gefið honum það há-virðulega auknefni. Þar var bjargið, sem kirkja hans skyldi reist á, og þar skyldi hún standa óhagganleg til eilífðar, hvernig sem myrkraöflin œddi á móti henni. En nú var þetta andlega bjarg brotið og bilað. Með því nafni varð lærisveinninn ekki nefndr nú, — ekki fyrr en hann eftir hina opinberu aflausn hefði að nýju verið settr inn í postula-embættið. Frelsarinn snertir undir eins hinn sára blett í sálu hans með því, að ávarpa hann með hinu upphaflega nafni hans, því nafni, sem minnti á hinn gamla, náttúrlega innra mann hans. En sársaukinn vex enn meir út af spurningunum, sem fyrir hann eru

lagðar, meir og meir með hverri spurning. ,,Elskar þú mig meir en þessir?" Hvort myndi hann ekki út af þessari spurning með sárum sting í hjartastað minnast þess, er hann rétt eftir kvöldmáltíðar-samsætið á göngunni með Jesú og lærisveinunum hinum út í grasgarðinn Getsemane í heimskulegu sjálfstrausti kom með þessa yfirlýsing: ,,Þótt allir hneykslist á þér, skal eg þó aldrei hneykslast á þér." Og enn fremr:,,Þótt eg ætti að láta líf mitt með þér, skyldi eg þó aldrei afneita þér." Gat hann nú komið með viðlíka yfirlýsing um staðfestu sína í trúnni? Þorði hann eins og nú var komið að játa því, að hann elskaði Jesúm meir en þeir hinir? Nei, ekki meir en þeir. Að bera sig saman við þá og þykjast mestr—það gat nú ekki komið til mála fyrir honum. Hann vissi það svo vel, að enginn hafði hrasað eins og hann, enginn syndgað eins mikið og hann. Ef samanburð skyldi við hafa, þá var hann vissulega þeirra minnstr og síztr, óverðugr til að vera postuli, óverðugr til að kallast lærisveinn. Og þó — þrátt fyrir allt og allt — elskaði hann Jesúm enn — og aldrei eins heitt og hjartanlega eins og nú, eftir hina stór-syndsamlegu hrösun. Það vissi hann svo vel. Því gat hann með engu móti neitað. Svo svarið hans upp á spurning Jesú hlaut þá að verða þetta: ,,Já, herra, þú veizt, að eg elska þig." Hvað mikið hann elskaði hann, að hve miklu eða litlu leyti þeirri elsku væri að treysta, það myndi Jesús vita miklu betr en sjálfr hann. Áðr treysti hann sjálfum sér, sinni trú og sinni elsku Jesú til handa. En nú er það sjálfstraust horfið. Nú er hann auðmjúkr. Allt hans traust nú á Jesú.

Þegar menn lesa þennan guðspjallskafla, sem skýrir frá samtali Jesú og Símonar Pétrs, á íslenzku eða ensku eða einhverju öðru nútíðarinnar tungumáli, þeirra allra að minnsta kosti, sem eg þekki nokkuð til, þá dylst mönnum nokkuð af fegrðinni og angrblíðunni, sem skín út úr samtalinu á hinni grísku frumtungu nýja testamentisins. Þegar Jesús spyr lærisveininn: ,,Elskar þú mig?" og lærisveinninn svarar: ,,Já, herra, þú veizt, að eg elska þig", þá eru hér í frumtextanum tvö orð, talsvert mismunandi að merking, en bæði útlögð eins, útlögð með orðinu ,,elska". Annað orðið viðhefir Jesús, þeg-

ar hann leggr spurning sína fyrir Pétr. Það táknar elsku í œðsta skilningi, trúarlega, guðlega elsku. Pétr veit af því, að hann elskar Jesúm, veit af því eins vel og því, að hann sjálfr er til. En að segja það, að hann elski Jesúm í þeim háa eða djúpa skilningi, það áræðir hann ekki. Hann velr annað orð, sem líka merkir elsku, en lægri tegund af elsku, að eins mannlega elsku, eins og þá, sem er á milli jarðneskra vina. Að hann elski Jesúm í þeim skilningi, það er hann alveg viss um. Meira þorir hann ekki að segja. Samtalið kœmist nær því, sem það er á frumtungunni, ef það væri þannig þýtt á vora tungu: „Elskar þú mig meir en þessir?" — Svar: „Já, herra, þú veizt, að mér þykir hjartanlega vænt um þig." Í annað sinn spyr Jesús eins og áðr — að því undanteknu, að hann sleppir samanburðar-orðunum „meir en þessir." „Elskar þú mig?" Svar eins og áðr: „Já, herra, þú veizt, að mér þykir hjartanlega vænt um þig." En þegar Jesús spyr í þriðja sinn, þá skiftir hann um orð, spyr með orðinu, sem Pétr hafði komið með: „Símon Jónasson! þykir þér hjartanlega vænt um mig?". Þá angraðist Pétr af því, að Jesús skyldi spyrja hann svo í þriðja sinn, sem verðr enn þá skiljanlegra, þegar menn vita, að nú hafði hann skift um orð. Því það var eins og frelsarinn efaðist um, að játning Pétrs um þessa lægri tegund elskunnar honum, Jesú, til handa væri einlæg og áreiðanleg. Og hann svarar — ekki í stórmennsku og ekki í reiði, en í sterkri geðshrœring, iðranda sársauka dýpstu auðmýkingar: „Herra, þú veizt allt; þú veizt, að mér þykir hjartanlega vænt um þig." — Hér birtist Jesús dýrðlega í verkinu sem hinn góði hirðir. Hér sést speki sú og kærleiks-nar gætni, sem æfinlega ræðr í afskiftum hans af syndmœddum og náðarþyrstum mannssálum. Svona fer hann að því að reisa þá við, sem fallið hafa og mœna iðrandi eftir guðlegri hjálp. Svona er hann, en þótt ósýnilegr sé, andspænis yðr öllum, sem hafið samskonar tilfinning út af hrösunum og yfirsjónum liðinnar æfi eins og Símon Pétr og þráið í sömu átt og hann. Svona gott er að vera hans lærisveinn. Svona dýrmætt er það að trúa á Jesúm Krist.

Svo mikil er kærleiks-nákvæmnin frelsarans á þessari há-

tíðlegu og há-alvarlegu stund, þegar hann er að veita lærisveininum syndfallna opinbera aflausn, að aldrei nefnir hann synd hans á nafn. En engu að síðr er hún þó stöðugt í huga þeirra beggja. Pétr hafði þrisvar afneitað Jesú. Og með tilliti til þess spyr Jesús hann þrisvar, hvort hann elski sig. Og fær líka í hvert skifti játanda svar upp á þá spurning. Frelsarinn spyr yðr alla, brœðr og systr, að hinu sama: ,,Elskar þú mig?" Og ef þér í hjartans alvöru svarið honum eins og Pétr, þá fullnœgir honum það svar bæði sem syndajátning og trúarjátning frá yðar hálfu. Vel má vera, að kristindómrinn sé mjög ófullkominn hjá þeim eða þeim manni, sem þessari spurning játar í fullri alvöru. þekkingin á sannindum trúarinnar af mjög skornum skammti, viljinn til hins góða afar veikr, lífsforsjálnin lítil, lífsvinnan í mesta lagi að eins hálfverk, yfirsjónirnar tíðar, hrösunin margföld. En ef sá hinn sami maðr í hjartans einlægni getr gjört þá játning, að hann elski drottin Jesúm, þá er honum áreiðanlega borgið. því hann er þá eins víst á leiðinni til lífsins, vaxanda trúarlífs í guði, eins og hið byrjanda jurtalíf, sem sprettr upp úr jörðinni að vorlagi, á það fyrir sér að þroskast meir og meir, eftir því sem lengra líðr út á vorið. það geta að vísu komið andleg vorhret eins og vorhretin í náttúrunni. Og í þeim vorhretum getr kalið allan gróðrinn, sem sprottinn var áðr fram sýnilegr fyrir manna augum. En haldist lífið í rótinni, þá þarf ekkert verulegt tjón af að verða. Og lífið helzt alveg víst í rótinni, ef hjartað býr yfir einlægri elsku til drottins Jesú. Slík elska er einmitt líf rótarinnar. Símon Pétr elskaði Jesúm vitanlega löngu áðr en hann gjörði þá játning, sem kemr fram í texta vorum. Hann elskaði hann frá því fyrsta augnabliki, sem hann kynntist honum. Og þó að sú elska væri ófullkomin all-lengi, þá fór hún þó stöðugt vaxandi og hafði endrfœðandi og helgandi áhrif á líf hans. það spratt undir eins gleðilegr vorgróðr fram í lífi hans. Svo kom að vísu hið hræðilega vorhret fyrir í sögu hans, og þá kól akrinn hans. Trúin bilaði og hann flœktist í afneitunarsyndinni. Hann sýndist eins illa kominn þá og nokkur vantrúarmaðr. En af því að hann þrátt fyrir þetta skelfilega andlega vor-

áfelli elskaði Jesúm, þá beið hann ekkert varanlegt tjón við það slys. Þegar vorhretið var liðið hjá, tók nýtt líf mjög bráðlega að birtast á akri hjarta hans, enn þá miklu sterkara en það, sem áðr hafði sprottið þar fram, líf, sem engir kuldanæðingar og engir brennheitir sólskinsdagar myndi geta látið visna upp, líf, sem standast myndi í öllum freistingum, hvort heldr meðlætisins eða mótlætisins, — hið eilífa líf frá Jesú Kristi upprisnum frá dauðum með sívaxandi og sífjölgandi sáluhjálpar-ávöxtum fyrir hann sjálfan og gjörvalla kristnina. — Vinr minn, ef þú í sannleika elskar Jesúm, þá þýðir það, að þú notar samvizkusamlega öll þau tækifæri, sem þér bjóðast, til að auka þekking þína á guðs orði. Þú kemr þá fram sem auðmjúkr og námfús lærisveinn hans. Þú forðast syndina betr og betr. Þú lærir að þekkja synda-eðli þitt betr og betr. Þú vinnr hin daglegu skylduverk þín með meiri og meiri trúmennsku. Þú verðr strangari og strangari í dómum þínum um sjálfan þig, en vægari og vægari, nærgætnari og nærgætnari í dómum þínum um aðra. Þolinmóðari, þrautseigari, auðmjúkari, fúsari til þess að lifa fyrir aðra og þjóna þeim. Ef þú elskar Jesúm, þá umgengst þú hann daglega í huganum og myndin hans mótast á hjarta þitt og líf. Og það mót verðr skýrara og skýrara, svo að samferðamenn þínir á lífsleiðinni geta ekki stillt sig um að segja eða að minnsta kosti hugsa, er þeir horfa á þig: „Þarna er áreiðanlega einn lærisveinn Jesú Krists, því þessi lífseinkenni geta að eins komið úr þeirri átt.“ Þú ert til þess kvaddr eins og Pétr forðum að leiða aðra menn til lífsins, að vera andlegr sauðahirðir fyrir drottin. Til þess eru allir kristnir menn kvaddir. Þá skyldu hafa allir hér undirgengizt um leið og þeir staðfestu skírnarsáttmála sinn eða um leið og þeir létu innritast í söfnuðinn. Ef þessi lífseinkenni birtast hjá þér, ef mót frelsarans er sýnilegt á lífi þínu, með öðrum orðum: ef þú með sönnu getr sagt: „Eg elska Jesúm Krist“ — þá ert þú þegar orðinn slíkr drottinlegr hirðir, jafnvel þér sjálfum ósjálfrátt eða án þess þú veitir því neina verulega eftirtekt. En vanti þau lífseinkenni, og það mót, og þá elsku, þá verða allar þínar tilraunir til þess að rækja hirðisskylduna kristilegu algjörlega til ónýtis.

Undir eins og Símon Pétr hafði svarað fyrstu spurning Jesú um það, hvort hann elskaði hann, og svarað henni eins og þér·heyrðuð játandi, þá segir Jesús við hann: ,,Gæt þú lamba minna.'' Þegar svarið kemr upp á spurninguna í annað sinn fram borna, þá segir Jesús: ,,Hirð þú sauði mína.'' Og þegar svarið kemr í þriðja sinn, þá segir Jesús: Geym þú sauða minna.'' Með þessum orðum gjörir Jesús tvennt í einu: Hann veitir lærisveininum opinbera aflausn, og hann setr hann aftr opinberlega inn í hirðisstöðuna, postula-embættið. Það er víst ekki svo að skilja, að lærisveinninn eigi með því, sem honum er hér boðið, að fœra frelsaranum sönnun fyrir því, að hann í hjartans alvöru elski hann eins og hann játaði að hann gjörði. Auðvitað er það öllum heimi ómótmælanleg sönnun fyrir elsku Pétrs á drottni, hve dýrðlega vel hann framvegis gætti hirðisskyldu sinnar. En Jesús þurfti engrar slíkrar sönnunar við. Hann vissi undir eins þá, að játning Pétrs var nákvæmlega samhljóða sannleikanum. Það var satt, sem Pétr sagði við frelsarann: ,,Þú veizt allt; þú veizt, að eg elska þig.'' Það að Jesús felr honum með svo skýlausum orðum hirðisskylduna bæði andspænis lömbunum og sauðunum, börnunum og fullorðna fólkinu bæði í bókstaflegri og andlegri merking, það sýnir, að hann tók játning Pétrs um elskuna honum til handa góða og gilda. Vegna þeirrar elsku vissi hann, að hér var maðr, sem óhætt var í alla staði að fela þessa erviðu og víðtœku kristindómsskyldu á hendr.

Í áframhaldi samtalsins segir Jesús Pétri fyrir píslarvættisdauðann, sem hann á sínum tíma átti að líða. Það var afleiðing þess, hve samvizkusamlega hann gætti hirðisskyldu sinnar. Þar sást bezt, hve mikil alvara honum var, er hann játaði því, að hann elskaði Jesúm. Og þar sannaðist þetta orð Páls postula: ,,En vér vitum, að þeim, sem guð elska, verðr allt til góðs.'' Líka önnur eins stórfelld hrösun og sú, er kom fyrir Pétr, getr orðið mönnum til góðs, verðr þeim öllum til góðs, sem elska drottin. Hin dýpsta auðmýkt og hin sterkasta trú — þegar það hvorttveggja birtist í lífi kristinna manna upp úr öðru eins syndafalli og Pétrs, þá er sýnt, að allt getr orðið og á að verða mönnum til góðs.

þá er Pétr hefir fengið að vita um sín forlög—píslarvættisforlögin, spyr hann Jesúm og bendir á Jóhannes: ,,Hvað verðr um þennan?" það er ekki nein léttúðug forvitni, sem þar ræðr. Mjög fjarri því. það er elska hans til þessa félaga hans, sem leggr honum spurninguna í munn. Umhyggja eða jafnvel áhyggja fyrir framtíð þessa vinar. En hann fær ekkert beint svar frá drottni upp á þá spurning. Drottinn vill halda því máli á huldu fyrir Pétri og öllum. það eina í svarinu, sem auðskilið var, er þetta: ,,Fylg þú mér eftir." það þýðir: Ef þú fylgir mér eftir, þá er öllu óhætt; þá getr þú treyst mér, trúað mér ekki að eins fyrir sjálfum þér, heldr líka fyrir þessum ástvini þínum og öllum öðrum, sem þér þykir vænt um. þýddi þetta fyrir Pétr og þýðir það enn fyrir alla sanna lærisveina drottins Jesú.

Fylgið Jesú eftir allir. þá getið þér varpað allri áhyggju yðar upp á hann, drottin yðar og frelsara,—líka með tilliti til ástvina yðar.

## Ný bók um Ísland.

,,Ísland um aldamótin" heitir bók eftir séra Fr. J. Bergmann, nýkomin út í Reykjavík. það er ferðasaga—saga um ferð höfundarins til Íslands og um Ísland sumarið 1899 á rúmum 320 blaðsíðum. Bókin er prentuð í prentsm. Ísafoldar, með skýru letri á góðum pappír, og, að fáeinum prentvillum fráskildum, prýðilega útlítandi. Í stuttum formála gjörir séra Friðrik grein fyrir því, hvað það einkum sé, sem hafi komið honum til að rita bókina. ,,Mig langaði"—segir hann—,,til að láta ferðasögu mína leggja brú á milli landa",—,,láta myndina—af landinu, fólkinu og lífskjörum þess, sem eg hafði flutt með mér að heiman—vera þannig, að kærleikrinn milli Vestr- og Austr-Íslendinga efldist og skilningrinn á þjóðlífsbaráttunni yrði ljósari." Og enn fremr segir hann: ,,Eg hélt það gæti ef til vill verið nokkurs um vert í bókmenntalegu tilliti, að til væri mynd af landi og lýð, högum og háttum nú um aldamótin, dregin upp af Íslendingi, sem verið hefir fjarlægr fóstrjörð sinni tuttugu og fimm ár og kemr svo heim með einlægan vilja til að skilja það, sem fyrir augun ber, og skilja það á bezta veg."

Bókin er í seytján þáttum eða kapítulum, og má undir eins af fyrirsögnum þeirra þátta sjá, að höfundrinn kemr víða við. þetta eru fyrirsagnir kapítulanna: Austr um hyldýpis haf, Í Noregi, Danmörk og danskt kirkjulíf, Koman til Reykja-

víkr (synódus, latínuskólinn), Alþing, Hjá guðfrœðingunum, Ritstjóraspjall, Öldungatal, Hvernig er höfuðborgin í hátt, Austr um land, Eyjafjörðr, Á hestbaki, Andlegr vorgróðr, Austr að Stóranúpi, Höfuðból í grennd við höfuðstaðinn, Framfarir, Kristindómr þjóðar vorrar.

Höfundrinn segir rœkilega frá austrförinni, ferðinni héðan að vestan til Íslands, en minnist ekkert á ferðina hingað til baka frá Íslandi.

Að því er snertir Ísland sjálft, talar hann lang-mest um fólkslífið þar, fremr lítið um náttúruna eins og hún er eða birtist aðkomnum áhorfanda. Útsýnið í Eyjafirði og náttúrufegrðina þar minnist höfundrinn þó talsvert mikið á og gjörir það ágætlega. Þar hefir blóðið runnið til skyldunnar. Því í Eyjafirði er œskustöð séra Friðriks eins og mörgum er kunnugt.

Hvervetna kemr fram í bókinni mjög hlýr hugr til Íslands og fólks vors þar heima, og samfara því hlýja hugarþeli skarpr skilningr á lífsbaráttunni þar bæði líkamlegri og andlegri. Og óefað verðr bókin til þess, eins og höfundrinn vill, að Íslendingar austan hafs og vestan fœrist hvorir öðrum nær, styðr að brúarlegging milli landanna, sem hvorir um sig búa í.

Sá þáttr bókarinnar, sem „Ritstjóraspjall" nefnist, er eingöngu um ritstjóra „Ísafoldar", þá Björn Jónsson og Einar Hjörleifsson. Enda er nú „Ísafold" svo sem kunnugt er aðalblaðið á Íslandi.

Í „Öldungatali" er minnzt á Pál Melsteð, sagnfrœðinginn, og konu hans frú Þóru Melsteð, dr. Jón Þorkelsson, fyrrveranda rektor latínuskólans, Halldór Kr. Friðriksson, fyrrum yfirkennara, og konu hans, séra Benedikt Kristjánsson, fyrrum prófast í Múla í Þingeyjarsýslu, Benedikt Gröndal, skáldið, sem höfundrinn þó ekki kynntist neitt persónulega, Þorbjörgu Sveinsdóttur, hinn alþekkta kvenskörung, frú Sylvíu Thorgrímsen (ekkju Guðmundar Thorgrímsens, kaupmanns)— og, þótt ekki sé þar um gamalmenni að rœða, þau Ólavíu Jóhannsdóttur og dr. Jón Þorkelsson hinn yngra.

Í þættinum „Á hestbaki" segir af ferð höfundarins úr Eyjafirði í Skagafjörð og þaðan vestr eftir Húnavatnssýslu, inn í Strandasýslu, upp úr Bitrunni yfir Snartatunguheiði ofan í Gilsfjörð og út í Ólafsdal, og þaðan síðar yfir Dalasýslu þvera, yfir Bröttubrekku og til og frá um Borgarfjörð.

Í þættinum „Andlegr vorgróðr" er minnzt á hið kristilega stúdentafélag í Reykjavík, en þó einkum á missíónarstarfsemi Friðriks Friðrikssonar, sem nú er orðinn prestr við Laugarnes-spítalann, á meðal barna og unglinga þar í bœnum.

Mest talar höfundrinn um kristindómslíf þjóðarinnar, gallana á því og framfaramerki þau, sem þar eru sýnileg. Þar næst um menntalífið, meðal annars í sambandi við það, er hann segir um latínuskólann. Um pólitíkina í sambandi við alþing. Býsna mikið drepr hann og á atvinnuvegina og framtíðarhorfur landsins í því tilliti.

Bókin er mjög skemmtilega rituð. Vonanda, að hún verði keypt og lesin almennt bæði í austrbyggðum og vestrbyggðum Íslendinga.

Hún verðr bráðum til sölu bæði hjá höfundinum og íslenzku bóksölunum hér vestra, og vafalaust enn fleirum.

## Kirkjuþing í sumar.

Hér með auglýsi eg almenningi í söfnuðum hins ev. lúterska kirkjufélags Ísl. í Vestrheimi, að næsta — seytjánda — ársþing félagsins, sem samkvæmt ályktan síðasta kirkjuþings á að halda á Gimli í Nýja Íslandi, Man., verðr, ef guð lofar, sett þriðjudaginn 25. Júní þ. á., eftir að þar hefir farið fram opinber guðsþjónusta, sem byrja á einni klukkustund eftir hádegi. Ætlazt er til, að allir kirkjuþingsmenn verði til altaris við þá guðsþjónustu.

Sérstaklega verða auglýstir fundir, er halda á í sambandi við kirkjuþingið út af málum sunnudagsskólans og bandalagsins.

Á trúmálsfundi þessa kirkjuþings á að tala um *syndina*. Séra Rúnólfr Marteinsson heldr þar inngangsræðu.

Söfnuðir, sem senda fleiri en einn erindsreka á kirkjuþing, gæti þess, að útbúa hvern þeirra með sérstöku vottorði um lögmæta kosning hans, en láti sér ekki nægja að senda sameiginlegt vottorð fyrir þá, er fyrir kosning hafa orðið.

Winnipeg, 13. Maí 1901.

Jón Bjarnason,
forseti kirkjufélagsins.

---

Hr. *Jón A. Blöndal*, 567 Elgin Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam.“

---



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.